# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

7. ár. WINNIPEG, NÓVEMBER 1892. Nr. 9.

## *SÁLMUR,*

þýddur eptir þýðing *Brorsons* úr þýzku
af síra VALDEMAR BRIEM.

Að þig guð þinn yfirgefi
aldrei, sál mín, hugsa þú,
nei, á því er enginn efi,
að hans loforð reynast trú.
þótt þú særðir hjarta hans,
hann er vinur syndarans.
þótt til saka opt þú ynnir,
ei við þig hans miskunn linnir.

Dýrðarinnar drottinn segir:
„Dauða' ei vil jeg syndugs manns“.
þegar synda-sekt þig beygir,
set þitt traust á orðin hans.
Faðmur hans þjer opinn er,
í hann glaður varpa þjer.
Hversu margir hjer sem falla,
hann vill reisa þá við alla.

því vor faðir elskar eigi
að eins þá, sem náð hans þrá;

þá, sem ganga á glæpa-vegi,
gæzkan hans og kallar á.
Aldrei þreytist elskan hans
á að leita syndarans.
það er víst, hann vill sem flestir
verði sínir brúðkaupsgestir.

Enginn straumur er svo stríður,
engin bylgja rís svo hátt,
engin glóð svo ákaft sýður,
að það stöðvi drottins mátt.
Enginn kraptur megnar mót
miskunn guðs,—hans náðarfljót
allar vorar af þvær syndir,
allar slekkur vondar girndir.

Hrelldu sálir, hræðizt ekki,
herrans náð ei bregðast kann;
úr þeim brunn þótt allir drekki,
aldrei þrotið getur hann.
Allra manna synda sjór
svo kann aldrei verða stór,
að hann sje þó eigi smærri
einum dropa' af náð guðs skærri.

---

## *KIRKJAN OG VANTRÚIN.*

þegar svefnhöfgi og dauðadrungi liggur yfir kristilegri meðvitund kirkjunnar, er lítið hugsað og lítið talað um málefni kristindómsins, og sízt af öllu er opinberlega um það talað. Allt virðist liggja í dái og deyfð. Á þeim tímum er vantrúin þó ekki aðgjörðalaus. þegar hveitiakurinn er annaðhvort illa eða alls ekki yrktur, verður hann allur þakinn illgresi. þegar akur trúarinnar er illa yrktur eða alls ekki, vex og útbreiðist illgresi vantrúarinnar; áður en menn varir, sprettur það upp í hverju horni og hverjum afkima. Hið illa þarf alls ekki að yrkja til þess að það vaxi. En hið góða kæfist niður og hverfur, nema lögð sje hin mesta alúð við yrking þess.

Menn tala um friðinn, hvað hann sje framúrskarandi æskilegur. Einkum tala menn um hann í sambandi við málefni kirkjunnar. það er álitið af sumum aðal-hlutverk kirkjunnar að semja frið. Sá, sem kirkjan kennir sig við, kallast friðarhöfðingi. Evangelíið er líka kallað friðarboðskapur. þess vegna eigi kristnir menn að forðast allan ágreining. þeir eigi að vera svo umburðarlyndir, að ganga úr vegi fyrir annarlegum skoðunum. þeir eigi að umbera allt, þola allt. Aldrei megi þeir standa í neinu þrasi, sízt af öllu þrasi út af trúarbrögðunum. Slíkt sje kristnum mönnum og kristindóminum sjálfum ósamboðið.

„Sælir eru þeir, sem friðinn semja, því þeir munu guðs börn kallaðir verða". Sjálfur kom frelsari vor til að semja frið—frið milli guðs og manna, en ekki frið milli hins illa og hins góða. Menn gleyma því opt. Sjálfur gekk hann út í hið óttalegasta stríð sem hugsazt má. Allur starfstími lífs hans var hin átakanlegasta barátta. Aldrei gekk hann úr vegi fyrir annarlegum skoðunum til að komast hjá stríði, heldur notaði hann hvert tækifæri til að slá þær á munninn og sýna fram á ósannindin, sem þær hvíldu á. Aldrei hefur nokkrum manni tekizt að vekja annan eins ófrið meðal þjóðar sinnar og þann, sem hann vakti. það lá í hans valdi að semja frið við hina voldugu í Ísrael, sem allir voru mótstöðumenn hans. En hann gjörði það ekki. Heldur en að víkja þversfótar fyrir kröfum þeirra, gekk hann út í dauðann. Með því sjálfur að standa uppi í þessu stríði, þessari ógurlegu baráttu, og með því að ganga í dauðann fyrir mennina, var hann að leiða friðinn inn í hjörtun, inn í mannlífið. Fyrir trúna á hann eignast maðurinn frið, himneskan frið fyrir samvizku sína og hjarta.

„Ætlið ekki," segir frelsarinn við lærisveina sína, „að af minni komu muni friður standa á jörðu; ekki mun hún friði valda, heldur styrjöldum." Allt líf hans var barátta, styrjöld gegn vantrúnni. Saga þess ríkis, sem hann kom til að stofna á jörðunni, átti því líka að verða saga baráttu og styrjaldar gegn vantrú og neitun. Eptir því verða kristnir menn að muna. Lífsskilyrði trúarinnar er barátta gegn vantrúnni. Kristnir menn mega ekki ímynda sjer, að þeir hafi leyfi til að láta vera að taka þátt í þeirri baráttu. Trú þeirra er þá til einskis, ef hún

knýr þá ekki út á þessa baráttu-leið. Og þó er sumum kristnum mönnum annara um friðinn en um allt annað. Þeir vilja ganga úr vegi fyrir vantrúnni til þess að hafa frið á sjer. Þeir vilja leiða hana hjá sjer, láta sem þeir viti ekki um, að hún sje til, fara í felur fyrir henni, til þess að komast hjá stríðinu, baráttunni, sem því fylgir, að ganga í berhögg við hana. Hve ólíkt er þetta frelsara vorum og postulum hans. Hve ólíkt öllum þeim, sem elskað hafa sannleikann umfram allt annað. Sá friður, sem vjer opt heyrum talað um og hrósað svo mjög, er falskur friður, syndsamlegur friður—friður hinnar sofandi samvizku, sem ekki vill láta sig vekja.

Lítum í kring um oss. Hvernig er ástandið í heiminum? Þar sem ekkert stríð og engin barátta er, þar er líka andlegur dauði. Þar sem menn hafa einhverja sannfæring, einhverja trú, sem þeir vilja leggja eitthvað í sölurnar fyrir, þar er líka stríð, ófriður, barátta—en um leið líf. Hvernig er þessu varið, þar sem kirkjan á í hlut? Baráttulaus „friðar"-kirkja dauðans kirkja. Þar er vantrúin naumast nefnd á nafn. Hún er ýmist látin vaða uppi, eða vinna sitt tortýningarverk í laumi, öldungis óáreitt. Í kirkjusögu flestra þjóða koma fyrir viss tímabil, þegar þannig er ástatt. Dauðans myrkur hvílir þá yfir trúarlífinu. En sá drottinn, sem er með kirkju sinni til daganna enda, lætur andans veður aptur blása yfir hinn dauða þjóðlífsakur, og önnur tímabil koma, þegar „friðurinn" ímyndaði er rofinn og menn herklæðast alvæpni trúarinnar til að heyja bardaga drottins.

Það er svo opt talað um þennan „frið", þennan falska, syndsamlega dauðans-frið, og honum hrósað fram yfir allt annað, að vjer megum ekki lengur orðanna bindast. Hann er svo lengi búinn að hvíla yfir trúarlífi þjóðar vorrar, að flestir elska hann umfram allt annað. Nú, þegar verið er að tala um nýja kirkjulega lífshreyfing, óttast svo margir, að það þýði nú eiginlega það, að friðurinn verði rofinn. Hann þyrfti að rjúfast, það er víst. Engin kirkjuleg lífshreyfing fæðist nema hann verði rofinn. Þetta verða kirkjunnar menn, þeir sem gjörast vilja berendur hinnar nýju lífshreyfingar, að gjöra sjer ljóst.

Kirkjan verður að ganga í berhögg við vantrúna, en ekki á þann hátt, að hún veki hatur og óvild til vantrúarmannanna. Öðru nær. Hún á ekki að ráðast að persónunum, heldur mál-

efninu; og sýnir hún þá, að hún ber ekki hatur í brjósti til nokkurs manns, heldur hatar að eins hið illa, og vill kenna það börnum sínum. Ótal margir menn í kirkjunni vilja ekki rjúfa friðinn, af því það mundi vekja hatur milli hinna trúuðu og vantrúuðu. Slíkt er misskilningur. Trúaður maður veit, að hann má aldrei hata nokkurn mann. Og þó vantrúaðir menn einatt telji sjer leyfilegt að hatast við þá, sem vilja frelsa þá úr fjötrum hinnar guðlausu lífsskoðunar, eins og frelsarinn var hataður af þeim, sem hann vildi frelsa, þá fær kirkjan þar ekki að gjört.

Nýr kirkjulegur áhugi! Ný starfsemi, nýjar framkvæmdir í kirkjunni! En hvað vantrúnni er illa við allt slíkt. Auðvitað eru til heiðarlegar undantekningar. Það eru til svo göfuglyndir vantrúarmenn, að þeir elska andlegt líf og starfsfjör, hvar sem það kemur í ljós. Þeir vilja miklu heldur vakandi, starfandi kirkju, en sofandi, aðgjörðalausa kirkju. En þeir eru undantekning. Vanalega rísa vantrúaðir menn öndverðir upp, þegar farið er að vekja máls á nýstárlegum framkvæmdum af kirkjunnar hálfu. Öll vopn vantrúarinnar eru þá dregin fram úr forðabúri hennar. Háðið, napurt og beitt, er látið dynja yfir kirkjuna. Hið heilaga er svívirt og gjört hlægilegt. Þá er orkt bæði í bundnum og óbundnum stýl. Ofurlítið dæmi, nýtt og eptirtektavert, viljum vjer benda á þessu til skýringar.

Það hefur nýlega verið vakið máls á því af ýmsum áhugamestu mönnunum í kirkjunni á Íslandi, að þjóð vor ætti að taka einhvern ofurlítinn þátt í hinni miklu og blessunarríku kristniboðs-starfsemi, sem rekin er af svo miklu kappi meðal heiðingja-þjóðanna. Þessi íslenzka kristniboðs-hugmynd hefur nú enn þá ekki átt miklu láni að fagna, en hún bar mjög ljósan vott um nýjan áhuga og vaknandi meðvitund um skyldu hinnar ísl. þjóðkirkju. Og þetta hefur vantrúin tekið sjer svo dæmalaust nærri. Það er eins og hún gjöri sjer í hugarlund, að ef íslenzka kirkjan færi að sýna af sjer svona mikla rögg í þessu máli, mundi eitthvað meira koma á eptir. Heil „þjóðsaga“ hefur verið sett saman út af þessu og birt í októ ber-blaði „Sunnanfara“. Hún er eptir sama höfundinn og kvæðin, sem vjer nefndum í síðasta nr.i „Sam.“ Þau voru vissulega ljót eptir vorum smekk, en þó er „þjóðsaga“ þessi enn ljótari. Tilgangurinn með hana er sá, að gjöra „Kristniboðana“ og kristniboðið fyrir-

litlegt og hlægilegt. þeim tilgangi verður nú auðvitað ekki náð, nema meðal þeirra manna, sem þegar bera fyrirlitning í brjósti fyrir því, sem bezt og fegurst er af öllu. En oss virðist þetta vera næsta sláandi dæmi upp á það, hvernig hvert einasta lífsteikn, sem kirkjan gefur af sjer, verður til þess að knýja vantrúna út úr fylgsnum sínum og koma henni til að birtast í sínum rjetta ham. því fleiri, sem lífsteikn ísl. kirkjunnar verða, þeim mun fleiri af svona löguðum „þjóðsögum“ mun vantrúin setja saman. En hver einasti slíkur vantrúar-sálmur er um leið hin sterkasta herhvöt til manna kirkjunnar, að láta ekki sína trúarsálma ósungna. þessi samsetningur um „Kristniboðana“ í „Sunnanf.“ sýnir ljóslega, hversu ofboð ljótar og óþverralegar hugsanir vantrúarinnar geta verið, hvernig hún hefur yndi af að taka hinar fegurstu og háleitustu hugmyndir og klæða þær í sem allra afskræmislegastan búning, ef hún með því móti hefur von um að fá tilgangi sínum framgengt.

---

## *DARWINS-TILGÁTAN.*

Frá alda-öðli hafa vísindamennirnir myndað sjer ýmsar tilgátur um þá hluti, er legið hafa fyrir utan takmörk þekkingar þeirra. Slíkar tilgátur eru ekkert annað en meira og minna líklegar hugmyndir, sem menn gjöra sjer um það, er þeir ekki vita. Lang-frægasta vísindalega tilgátan, sem enn hefur komið fram, er tilgáta sú, sem kennd er við enska vísindamanninn *Darwin* (d. 1882). Bezt kannast menn, ef til vill, við hana, þegar sagt er, að hún fari fram á það, að mennirnir sjeu komnir af öpum. það er einn liður darwinsku tilgátunnar, sá liðurinn, sem leitast við að gjöra grein fyrir uppruna mannsins. Síðastliðin þrjátíu ár hefur um fátt verið jafn-tíðrætt og þessa djarflegu tilgátu. það eru ekki vísindamennirnir einir, er tekið hafa þátt í þeim umræðum. þær hafa verið mjög almennar meðal allra hugsandi manna. Eins og allt, sem snertir uppruna heimsins og sjerstaklega mannsins, stendur tilgáta þessi í einskonar sambandi við trúarbrögðin og þá sköpunarsögu, sem vjer lesum á fyrstu blaðsíðum ritningarinnar. Vantrúin hefur þess vegna, eins og vjer svo opt höfum bent á, tekið á móti tilgátunni um

apann sem forföður mannsins með fegins hendi. Því frá vantrúarinnar hálfu er sú staðhæfing gjörð, að maðurinn sje ekkert annað en dýr, að sönnu undur-fagurt og aðdáanlegt dýr, en þó ekkert annað en dýr. Hafi hann nú eitt sinn verið á svo lágu þroskastigi, að hann hafi ekki verið annað en *api*, virðist það vera sterk sönnun fyrir því, að hann sje ekki annað en dýr.

Um darwinsku tilgátuna er nú það að segja, að hún hefur verið *tilgáta* nú í síðastliðin þrjátíu ár og hún hefur ekki hætt að vera tilgáta enn. Það þarf einlægt að vera að minna menn á þetta, því af vantrúarinnar hálfu er stöðugt gengið fram hjá því. Það er leitazt við að slá því föstu í almennings-meðvitundinni, að þessi vísindalega tilgáta sje full-sönnuð og óhrekjandi sannindi. Til þess nú að koma lesendum vorum í skilning um, hvernig hinir gætnustu meðal vísindamanna heimsins líta á þetta mál eptir þrítuga leit og rannsókn og umræður, viljum vjer gefa hjer ofurlítinn útdrátt úr ræðu eptir þýzkan vísindamann í fyrstu röð, sem hann hefur haldið fyrir þremur árum á mannfræðingafundi í Vínarborg. Hann heitir *Virchow*. Hann var þá og er enn forseti hins þýzka mannfræðisfjelags ,og má af því marka álit það, sem hann hefur meðal vísindamannanna Orð hans verða enn þá eptirtektaverðari, þegar tekið er tillit til þess, að þau eru töluð úr forsetasæti, þar sem helztu vísindamenn heimsins sitja á fundi til að bera saman áranguriun af hinu vísindalega starfi sínu.

Ræðan er um framför hinnar mannfræðislegu þekkingar í heiminum síðustu tuttugu árin. Hún er ákaflega löng og um há-vísindaleg efni, eins og gefur að skilja; það eru þess vegna að eins fáein atriði úr henni, sem vjer hjer drögum fram og leiðum athygli lesenda vorra að. Hún er hvergi prentuð í heild sinni nema í hinum umfangsmiklu tíðindum frá þessum fundi, sem vjer höfum fengið frá Þýzkalandi og nú liggja fyrir framan oss.

„Fyrir tuttugu árum var sú tíð, að Darwins-kenningin hafði haldið sína fyrstu sigurför um heiminn. Þá vonuðu menn, að hugmyndin um ætterni mannsins mundi sigra í heild sinni, eins og hún var útlistuð, ekki af *Darwin* sjalfum, heldur af fylgismönnum hans— því það er ekki Darwin, heldur Darwinistarnir, sem hjer er um að ræða. Menn áttu almennt von á, að færðar yrðu fram sönnur fyrir því, að maðurinn væri kominn

af öpum, að ætt hans yrði rakin til apans eða að minnsta kosti einhvers dýrs. Þetta var nú krafan, sem þá var fram sett, og efst stóð á dagskrá. Allir vissu eitthvað um þetta; öllum fannst það koma þeim við; sumir töluðu með, aðrir mót; menn álitu það hið æðsta hlutverk mannfræðinnar að leysa úr þessu. Í þessu sambandi verð jeg að taka mjer það leyfi, að minna menn á, að náttúruvísindin, á meðan þau eru náttúruvísindi, hafa að eins virkilega hluti við að sýsla. Um gildi vísindalegrar tilgátu geta menn rætt, en það fær einungis þá einhverja þýðing, þegar komið er fram með virkilegar sannanir fyrir tilgátunni, hvort sem þær eru byggðar á rannsóknum eða persónulegri eptirtekt. Þetta hefur formælendum Darwins-kenningarinnar ekki tekizt enn þá, að minnsta kosti ekki að því, er mannfræðina snertir. Árangurslaust hafa menn leitað eptir liðunum, er tengja áttu manninn við apann; það er ekki unnt að benda á einn einasta. Hinn svo nefndi frummaður, *proanþrópos*, er sýna átti þennan millilið, er enn þá öldungis ósýnilegur; enginn sannarlega lærður maður gjörir þá staðhæfing, að hann hafi sjeð hann. Fyrir mannfræðinginn getur þess vegna frummaðurinn ekki verið neitt efni vísindalegrar umræðu. Hann birtist, ef til vill, einhverjum í draumi, en enginn getur sagt, að hann hafi komið honum nærri í vökunni. Jafnvel vonin um, að hann muni innan skamms verða fundinn, er orðin mjög svo fjarlæg; menn tala naumast um hana, því vjer lifum ekki í heimi ímyndananna, draumanna eða tilgátnanna, heldur í virkilegleikans heimi, og sá heimur hefur reynzt að vera næsta erviður viðfangs. Þegar vjer fyrir tuttugu árum sátum á fundi saman, leit svo út, sem mundi það með stormsins hraða verða unnt, að rekja ættartöluna frá apanum eða einhverju öðru dýri til mannsins. Á þessu augnabliki hljótum vjer í allri auðmýkt að viðurkenna, að oss er jafnvel ekki unnt að rekja ættir hinna einstöku kynstofna saman. Þá vissu menn ekki, hve torvelt það er, að sýna fram á, að maðurinn sje bróðir allra annara manna, og þó voru menn önnum kafnir með að setja fram kenningar um hið innra samhengi kynstofnanna. Fyrsta norðurálfumanninn höfum vjer enn ekki fundið; ef til vill finna menn hann hjer eptir. Nú sem stendur vitum vjer að eins þetta, að meðal hinna elztu

manna hefur enginn verið líkari öpum en menn gerast nú á dögum.“

„það er nú enginn alls óþekktur kynstofn til á jörðinni. Að sönnu getur verið ofurlítill möguleigleiki fyrir nýjar uppgötvanir á einum einasta stað í heiminum, á hálfeyjunni Malacca. Annars þekkjum vjer þá alla; Eldlendingar, Eskimóar, Búskmenn, Weddar, Lappar, Ástralíumenn og allir Eyjabúar eru smámsaman orðnir oss kunnir, og um marga þeirra vitum vjer meira en um norðurálfu-þjóðflokkana. Af rannsóknum þessum hefur það orðið ljóst, að meðal hinna villtu þjóða er engin einasta, er stendur öpunum jafn-nærri og oss, aukheldur nær. Sjerhver lifandi kynstofn mannanna er enn þá að öllu leyti með mannlegu eðli, enn þá hafa menn ekki fundið neinn, sem væri með apa-eðli, og ekki heldur neinn, sem stæði mitt á milli apans og mannsins. þetta er hinn mikli aðskilnaður nútíðar-rannsóknarinnar.“

„Nú sem stendur getum vjer heldur ekki sagt, hvort allir kynstofnar sjeu komnir af einum og sömu fyrstu foreldrum eða fleirum. það er eiginlega ekkert efni þekkingarinnar samkvæmt skilningi náttúruvísindanna. Vjer verðum að láta hvern einstakling ráða því, hverja skoðun hann myndar sjer um það efni eptir hinum sjerstöku þörfum sínum. Vjer höfum engar mótbárur að reisa gegn þeim manni, er gengur út frá trúarlegri þörf sinni og álítur, að allir menn sjeu komnir af einum og sömu fyrstu foreldrum. Vjer hljótum að viðurkenna möguleigleikann, að allir ættstofnar og kynþættir eigi sameiginlega fyrstu foreldra, en hafi smámsaman breytzt og orðið hver öðrum ólíkir; en það hefur t. d. aldrei verið sannað, að Márar væru komnir af hvítum ættfeðrum, eða að hvítir menn ættu ættir sínar að rekja til Mára. þetta hafa menn hvergi orðið varir við. Ekkert atriði virkilegrar rannsóknar sannar, að slík breyting hafi átt sjer stað.“

„það er ekki óeðlilegt að álíta, að mismunandi loptslag og ólík vinna hafi haft nokkur áhrif. Í þessu efni á sjer enginn mismunur stað milli strang-rjetttrúaðra manna og hinna áköfustu Darwinista. Frumsetning þeirra er hin sama; aðrir benda að eins á fyrsta manninn; hinir ganga fram hjá honum og benda á það dýrið, sem næst honum stendur. það er eini munurinn,

sem á sjer stað; að öðru leyti ímynda báðir málsaðilar sjer, að fyrstu mennirnir hafi breytzt, og við þær breytingar hafi hinir ýmsu kynstofnar til orðið. Annar málsaðili getur ekki fært fram vísindalegar sannanir fyrir sinni frumsetning, að því er manninn snertir, og hinn heldur ekki, að því er apann snertir; einnig að þessu leyti er líkt á komið með þeim. þegar þjer spyrjið mig: Voru fyrstu mennirnir hvítir eða svartir? verð jeg að segja, að jeg viti það ekki. Vjer höfum enga ástæðu til að gjöra neina staðhæfing um það efni; það er enginn blettur til í heiminum, þar sem þetta hefur komið í ljós."

Hjer látum vjer staðar nema. Vjer höfum hjer látið einn heimsfrægan vísindamann tala. Enginn hinna mörgu, er sátu á þessu móti vísindanna, ljet með einu orði til sín heyra, að sannleikanum væri hjer hallað í nokkru. Mundi þó slíkt hafa verið gjört, hefði ástæða þótt til, og allur slíkur ágreiningur, sem fram kom á fundinum, er nákvæmlega sýndur. þvert á móti bera fundartíðindin með sjer, að hinir æruverðu öldungar, er þarna sátu, hvað eptir annað klöppuðu lof í lófa meðan ræðan var flutt, og er tekið fram, að það hafi haldizt við langa stund eptir að hann hafði lokið máli sínu. það er því óhætt að álíta, að orð hans sjeu um leið orð fundarins. þegar trúaður maður gjörir þá staðhæfing, að allt mannkynið eigi ætt sína að rekja til Adams og Evu, hefur hann orð guðlegrar opinberunar fyrir sjer. þegar vantrúarmaður gjörir þá staðhæfing, að þetta sje hjátrú ein og hjegilja, að maðurinn sje kominn af öpum og apinn aptur af enn ægri dýrategundum, hefur hann alls ekkert við að styðjast; það er enn þá sem komið er getgáta út í bláinn, tilgáta, sem enga sönnun hefur við að styðjast, en hefur guðs-orð eindregið á móti sjer.

Snemma á þessu ári hjelt þetta þýzka mannfræðisfjelag fund með sjer í *Ulm*. Voru þar tekin til íhugunar hin ýmsu spursmál, er standa í sambandi við aldur mannkynsins. Margir af fyrirlestrum þeim, er fluttir voru, gengu í öfuga átt við kenning þeirra *Darwins*, *Haechels* og fylgismanna þeirra. *Virchow*, sem nú er orðinn aldraður maður, stýrði einnig í þetta sinni fundinum og tók röggsamlegan þátt í umræðunum. Seinna vonum vjer að geta skýrt lesendum vorum nákvæmlega frá fundi þessum, sem fyrir margra hluta sakir er talinn mjög markverður.

## *PRESTABINDINDIÐ Á ÍSLANDI.*

---

Biskup Íslands og sjö aðrir andlegrar-stjettar-menn ljetu í sumar áskorun ganga út til allra presta á landinu um að gjörast bindindismenn. Áskorun þessi hefur haft þann árangur, að „hjer um bil þriðjungur prestastjettarinnar“ þar heima hefur skrifað undir bindindis-yfirlýsing. En svo er yfirlýsing þessi haglega orðuð, að vjer spurðum sjálfa oss hvað eptir annað, eptir að hafa lesið hana, hvort þeir, er ritað hafa nöfn sín undir hana, hefðu gengið í æfilangt bindindi eða ekki. Yfirlýsingin hefur verið birt í „Kirkjublaðinu“ með öllum þeim undirskriptum, sem hún enn hefur fengið. Fjörutíu og sex nöfn íslenzkra andlegrar-stjettar-manna eru þannig komin á bindindisskrána; þar á meðal er biskup landsins, einn af þremur kennurum prestaskólans, átta af tuttugu prófföstum á landinu og þrjátíu og sex af öðrum 117 þjónandi prestum. Þetta er stór-mikil framför frá því, sem verið hefur; því vjer sjáum bæði af „Ísafold“ og „Goodtemplaranum“, að þessir menn álítast að vera gengnir í æfilangt bindindi „bæði frá að neyta og veita“. Auðvitað eru fjarska margir enn eptir, sem ekki hafa viljað sinna þessu, því ef allir uppgjafaprestar og guðfræðingar, sem ekki eru í prestlegri stöðu, eru taldir með, verður þetta ekki nema fjórði hluti íslenzkra guðfræðinga. En ef þeir, sem þegar hafa í bindindi gengið, standa allir drengilega við heit sitt og leitast við að fá embættisbræður sína til að breyta eptir þessu lofsverða dæmi, má ganga að því vísu, að talan fjölgi með ári hverju, og ísl. prestastjettin hrindi smámsaman af sjer drykkjuskapar-ámæli því, sem á henni hefur hvílt. Hve nær sem ekki verður unnt að benda á neinn drykkjumann meðal prestanna á Íslandi, vonum vjer, að telja megi upp fjölda-marga hluti aðra, sem færzt hafi í lag. Eitt aðal-atriði fyrir bindindis-hreyfinguna er það, að hafa prestana eindregið með sjer. En hugsa verður um prestaefnin ekki síður. Hver einn og einasti prestaskólamaður ætti svo sem að sjálfsögðu að vera bindindismaður. —Svona kemur það einlægt áþreifanlega í ljós, hve miklu má til leiðar koma með ötulli forgöngu. Hve nær sem tekið er í strenginn með einbeittum vilja, er unnt að koma mjög miklu til leiðar. Ýmsir hafa talið sjer trú um, að það sje ekki til

neins að reyna neitt þessháttar á Íslandi. Það megi til með að láta allt sitja þar við sinn keip, fólkið sje svo tregt og vanafast. Þegar t. d. verið er að tala um endurvakning nýs og fjörugs trúarlífs í kirkjunni á Íslandi, hefur því verið borið við, að það sje ekki til neins að hugsa sjer, að slíkt geti nokkurn-tíma orðið; Íslendingar sjeu nú einu sinni ekki neinir trúmenn, öflugt trúarlíf geti því aldrei átt sjer stað í kirkjunni ísl.; hið skynsamlega sje svo mikið ofan á í hugsunarhætti Íslendinga, að skynsemistrúin svo nefnda sje þeim miklu eiginlegri en trú kristindómsins. Einmitt það! Skynsemin á að vera svo mikil hjá oss Íslendingum, að vjer getum ekki hennar vegna verið trúmenn. Þó er trúarlífið hvergi öflugra í heiminum en meðal upplýstustu og skynsömustu þjóðanna. Þrátt fyrir það hafa ýmsir lifað sig svo inn í þessa fáránlegu afsökun, að þeir álíta, að skynsemin muni ætíð standa í vegi fyrir þrifum trúarlífsins á meðal vor. Nei, það er eitthvað annað en skynsemin, sem stendur oss fyrir þrifum. Vjer höfum víst fremur of-lítið en of-mikið af henni. Það er andleg *leti*, sem á oss stríðir, siðferðislegt þróttleysi, skortur á einbeittum vilja. Bindindishreifingin, sem starfandi hefur verið á Íslandi með svo miklu fjöri og sterkri sannfæring hin síðari árin, hefur ljóslega sannað þetta. Hún tekur algengasta þjóðlöstinn fyrir, uppáhaldssynd þjóðarinnar, eptirlætisgoð æðri sem lægri, og setur sjer fyrir að vinna bug á þessu. Og furðulega mikið hefur henni orðið ágengt. Það hafa óneitanlega verið framfarir í ýmsu hin síðari árin á fósturjörð vorri, en þá framför, sem bindindishreyfingin hefur skapað, ætlum vjer þá lang-þýðingarmestu. Sýnir ekki þessi bindindishreyfing og ávextirnir, sem hún hefur borið hve miklu væri unnt að koma til leiðar með svo ótal-margt annað? Hafa ekki þessir bindindismenn látið kirkjumennina verða sjer til minnkunar með því að vera einbeittari, ötulli, viljasterkari, þar sem um framgang og sigur þeirra málefnis hefur verið að ræða, en starfsmenn kirkjunnar hafa verið, þar sem málefni trúarinnar hefur verið annarsvegar? Bindindismennirnir hafa greinilega sýnt prestunum, hve miklu þeim væri unnt að koma til leiðar trúarlífinu til eflingar og endurfæðingar, ef viljinn væri nógu sterkur og einbeittur og trúin á sigur hins góða málefnis heil, en ekki hálf. Menn tala sjaldan meira

óvit, en þegar þeir eru að afsaka sig fyrir einhverja vanrækslusynd. Vjer munum ekki eptir að hafa heyrt öllu óviturlegri afsökun en þá, að skynsemin sje svo sterk hjá Íslendingum, að þeir geti ekki verið trúmenn þess vegna.

## FRÁ WITTENBERG.

Hin nafnfræga Kastalakirkja í borginni Wittenberg á Þýzkalandi, þar sem Lúter negldi sínar frægu 95 greinir á hurðina 31. okt. 1517 og byrjaði um leið hið þýðingarmikla verk trúbótarinnar, hefur nýlega verið endurreist með afar-miklum kostnaði nákvæmlega í sama stýl og hún var fyrir 375 árum. Hinn 31. okt. síðastl. var þessi endurreista kirkja vígð með svo mikilli viðhöfn, að því var veitt eptirtekt um allan heim. Ógurlegur fjöldi fólks af öllu Þýzkalandi var saman kominn í Wittenberg til að vera staddur við hátíðarhaldið. Vilhjálmur keisari, keisarafrúin og þrír synir þeirra, ásamt heilum hópi þjóðhöfðingja frá prótestantisku löndunum gjörðu hátíðarhaldið enn viðhafnarmeira með nærveru sinni. Sagt er, að páfinn í Rómaborg ográðaneyti hans hafi verið á glóðum út af allri þessari viðhöfn, einkum vegna þess, að það haf i kvisazt, að keisarinn ætlaði við þetta tækifæri að flytja eina af hinum frægu ræðum sínum, sem óttazt var að mundi verða miður vingjarnleg í garð kaþólsku kirkjunnar.

Árið 1439 var byrjað að reisa þessa nafnfrægu kirkju, en ekki var byggingunni lokið fyrr en 1499. Árið 1760 skemmdist hún mjög mikið af skothríð, sem gjörð var á bæinn, og 1813—1814 skemmdist hún enn þá meira af sömu orsökum. Næsta ár þar á eptir var tekið að endurreisa hana, og nú er því verki lokið fyrir örlæti og höfðingskap Vilhjálms keisara.

Hvervetna í borginni úir og grúir af endurminningum um hinn mikla trúbæti. Skammt frá járnbrautarstöðvunum stendur eikartrje eitt, sem þar var gróðursett 1830. Það á að standa á blettinum, þar sem Lúter brenndi bannfæringarskjal páfans 10. des. 1520. Sagt er, að hann hafi valið þennan stað, af því að þar hafi verið grafin föt þess fólks, er dáið hafði úr drepsóttinni miklu. Á markaðinum stendur myndarstytta Lúters undir gotneskum himni. Á fótstykkinu standa þessi orð Gamalíels:

„Ef þetta fyrirtæki er af mönnum, fellur það sjálfkrafa, en sje það frá guði megnið þjer ekki að kefja það.“ Undir koparhellu einni mikilli í Kastala-kirkjunni liggja hinar jarðnesku leifar Lúters.

Skrúðgangan var hafin á auða svæðinu fyrir framan borgarhöllina. Fyrst gengu allir hinir æðstu embættismenn prótestantisku kirkjunnar í keisaradæminu. Næstir þeim gengu allir viðstaddir prestar, þá foringjar hersins í fullum einkennisbúningi, ríkisráðgjafar og þingmenn, þá þýzkir prótestantiskir þjóðhöfðingjar og þeirra lið, þá fulltrúar erlendra prótestantiskra konunga. Síðast fór keisarinn sjálfur með sínu föruneyti og lífvörður hans úr riddaraliðinu. Um leið og teiknið var gefið, að þessi feikna prósessía skyldi leggja af stað til kirkjunnar, var kirkjuklukkunum hringt, en lagið „Vor guð er borg á bjargi traust“ leikið á horn frá turni Kastalakirkjunnar.

Þegar keisarinn kom að kirkjudyrunum, rjetti byggingarmeistarinn, er sjeð hafði um endurreisn kirkjunnar, honum lykilinn. Með nokkrum hlýlegum orðum rjetti hann lykilinn aptur að forseta safnaðarráðsins, sem aptur seldi presti safnaðarins, dr. *Qvandt*, hann í hendur, um leið og hann sagði:

„Fyrir skipun keisarans, hins háa verndara og byggingarmeistara þessa guðshúss, og samkvæmt embættisskyldu minni afhendi jeg yður þennan lykil sem vígðum prjedikara orðsins. Ó, að allir þeir, sem ganga inn um þær dyr, er lykill þessi opnar, megi fá að ganga inn um hlið himinsins!“

Hirðpresturinn, dr. *Vieregge*, flutti hátíðarræðuna og hafði fyrir texta þessi orð úr Rómverja-brjefinu (3,24): „Allir verða rjettlættir án verðskuldunar af hans náð fyrir endurlausnina, sem er í Kristó Jesú“. Að guðsþjónustunni lokinni, fór keisarinn til þess húss, sem Lúter bjó forðum í, og þaðan horfði hann yfir sögulega skrúðgöngu, er látin var halda fram hjá húsinu og verið hefur einhver hin mikilfengasta í sinni röð. Hún sýndi Martein Lúter ríðandi og alla hina helztu fylgismenn hans. Keisarinn og allt það konungmenni, er þarna var saman komið, ljet sjer mikið finnast til um allt þetta. Að þessu búnu settist keisarinn að veizlu með gestum sínum, 220 að tölu. Í veizlulokin hjelt keisarinn svo látandi ræðu:

„Hugmyndin um að endurreisa Kastalakirkjuna snart viðkvæma strengi í hjörtum forfeðra minna. Eptir að afi minn hafði sjeð fyrir fjenu, tók faðir minn, sem jeg avallt minnist með sarasta söknuði, hugmyndina að sjer með þeim brennandi áhuga, sem einkenndi hinar sterku tilfinningar hans. Það var ekki vilji drottins, að föður mínum auðnaðist að sjá verkið fullgjört, en þakklátir eptirkomendur munu aldrei gleyma því, að nafn hans er óaðgreinanlega sameinað þessari endurminning um reformazíónina. Kirkjan er fyrir oss ekki endurminningin ein, heldur alvarleg áminning og sterk sönnun fyrir þeirri guðlegu blessun, sem vjer höfum hlotið vegna prótestantisku kirkjunnar. Sú játning trúar vorrar, sem vjer í dag gjörðum frammi fyrir drottni, tengir oss og alla kristnina saman. Í henni felst það friðarins band, sem nær út fyrir allar deildarlínur. Í trúarefnum á sjer engin nauðung stað. Frjáls sannfæring hjartans og ótvíræð viðurkenning hennar eru hinir blessunarríku ávextir

siðabótarinnar. Vjer prótestantar eigum við enga í ófriði sökum trúarinnar, en vjer erum fastheldnir við trú vora á náðarboðskapinn til dauðans."

Keisarinn þakkaði því næst þjóðhöfðingjunum þýzku og hinum prótestantisku konungum norðurálfunnar fyrir að hafa tekið þátt í hátíðarhaldi þessu. Að endingu lypti hann upp bikar þeim, sem borgin Wittenberg hafði gefið Lúter á giptingardegi hans og sagði: „Bikar þessi hefur snortið varir Lúters. Úr honum ætla jeg nú að drekka velfarnaðarminni hinna göfugu gesta minna. Lengi lifi prótestantisku þjóðhöfðingjarnir á þýzkalandi og stjórnir hinna frjálsu þýzku borga!"

---

*Columbus-sýningin* mikla í Chicago að vori og sumri komanda er nú orðin býsna nærri. Það eru nú ekki nema fáeinir mánuðir þangað til hún byrjar. Menn eru þegar farnir að hugsa um gistingarstað í þeirri miklu borg yfir þann tíma, sem þeir búast við að dvelja þar; því eflaust er hyggilegra að vita fyrirfram, hvar maður ætlar sjer að hafast við, þegar þangað kemur. — Fjárhaldsmenn lúterska prestaskólans þar bjóða öllum lúterskum prestum, er til sýningarinnar ætla að koma, að útvega þeim hæfilegan gistingarstað. Til þess á að nota byggingar skólans. Þeir, sem vilja sæta tilboði þessu, kaupa nú í vetur skuldbindingarskjal hjá nefndinni fyrir 10 dollara, er gefur eigendunum tilkall til húsnæðis í borginni yfir 10 daga, og eiga þeir að njóta allra þæginda, sem góðu húsnæði fylgja. Allt það fje, sem þannig kemur inn, gengur í byggingarsjóð skólans. Fæði verða menn auðvitað að kaupa, og fæst það þar í næsta nágrenni og verður selt við sanngjörnu verði. Menn geta komið hve nær á sýningartímanum, sem þeir helzt óska, en verða að láta nefndina vita um komu sína 10 dögum áður. — Vjer viljum benda bræðrum vorum heima á Íslandi á þetta, því vjer búumst við, að einhverjir þeirra ætli sjer að fara hingað vestur að sumri til að vera við sýninguna. Mennirnir, sem fyrir þessu fyrirtæki standa, eru alþekktir heiðursmenn og munu drengilega efna öll loforð sín. Ef einhver prestur á Íslandi skyldi hugsa til farar og vilja nota sjer þetta góða tilboð, sem eflaust mundi spara honum stórfje, má hann snúa sjer til síra Fr. J. Bergmanns, Garðar, North Dakota, sem koma skal peningunum til skila og senda aptur skjalið.

---

Þingvallasöfnuður í Norður Dakota (Eyford) hefur í sumar komið sjer upp mjög myndarlegri og snoturri kirkju. Hún stendur beint andspænis húsi Jakobs Eyfjörðs að austanverðu við veginn. Hún er með all-háum, laglegum turni og er sönn sveitarprýði. Húsið er fullgjört hið ytra, og hefur söfnuðurinn, sem þó er mjög fámennur, lagt svo vel til á einu ári, að húsið er skuldlaust eins og það nú stendur. Innanbyggingin verður að bíða til annars árs.

---

Sunnudaginn 30. okt. var enn ein lútersk kirkja vígð í Winnipeg, og nefnist hún sænsk-lúterska Síons-kirkjan. Söfnuðurinn og kirkjan tilheyrir Ágústana-synódunni sænsku, og var kirkjan vígð af forseta Minnesota-deildarinnar, Rev. *Sjöblom*, með aðstoð prestanna *S. G. Swenson* og *S. Udden*. Hinn síðarnefndi kom til Winnipeg nú í sumar og gjörðist fastur prestur safnaðarins. Fyrir utan lút. kirkjuna ísl. eru nú þannig tvær aðrar lút. kirkjur í Winnipeg, önnur þýzk, en hin sænsk. Það er ekkert annað eptir, en að bætist við sú fjórða, nl. ensk-lútersk kirkja, eins og vinur vor síra *Gerberding* í Fargo benti á, þegar hann var á ferðinni í haust.

---

*Leiðrjetting.* Í maínr.i „Sam.", í síðasta erindi kvæðisins „Jesús og Nikódemus", stendur „morgun*roðinn*" fyrir „morgun*blærinn*". Í kvæðinu „Vitran Sáls" (júnínr.) stendur á tveimur stöðum (4. og 12. er.) „fyr um" fyrir „fyrrum" og í næst-síðasta erindi „bylgjum" fyrir „byljum". — Þetta eru menn góðfúslega beðnir að leiðrjetta.

---

*KAUPENDUR „SAM." Á ÍSLANDI borgi blaðið hr. Sigurði Kristjánssyni í Reykjavík.*

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétsson, N. Stgr. Þorláksson, M. Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.